Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, SEPTEMBER 1892. Nr. 7.

## *HINN MIKLI FISKIDRÁTTUR.*

(Lúk. 5.)

Eptir *síra Valdimar Briem.*

——:o:——

Við Genesaretvatnið í Galíleabyggð
var gaman að lifa fyr á tíðum,
er stafaði sólin á silfur-vötnin skyggð
og seglin, er blöktu' í vindi þíðum.

Um fiskisæla vatnið, um fagurbláan sjá
á fagurbúnu seglin hvítu stirndi
sem ljómandi smástjörnur loptsins hvelfing á,
er leiptrandi blika' í næturvindi.

Einn fagran sumarmorgun tvö flutu lítil fley
þar fram með vatnsins ströndum sumargrænum;
sem fannhvítir svanir á vog í vorsins þey
þau vögguðu hægt í morgunblænum.

En fiskimenn af skipunum farnir voru' í land
sín flóknu net að þvo og sundurgreiða;
þeir breitt höfðu netin á bleikan fjörusand,
því báglega gengið hafði að veiða.

Á ströndinni var Jesús, og mikill fjöldi manns
þar meistara sinn hafði flykkzt í kringum,
og hlýddi þar ljúfur á lífsins orðin hans,
er ljósum hann flutti' í samlíkingum.

Að meistaranum þyrptist svo mikill sægur þá,
en menn hann vildi heyra láta betur,
og fór því á skip út, er flaut þar ströndu hjá,
það fiskiskip átti Símon Pjetur.

Þá bað hann Símon Pjetur að leggja landi frá;
hann lítið eitt frá ströndu skipi renndi.
Í lypting stóð Jesús, en landi fólk stóð á,
er lýðnum af skipinu hann kenndi.

Þar sat hann hátt í lypting, en ljóssins drottning hrein
um lopt og hauður morgungeisla sendi;
en fegur þó ásjána frelsara vors skein,
er fólkinu' af skipinu hann kenndi.

Þar sat hann hátt í lypting, en blíður morgunblær
á bylgjuhörpu sló með geislavendi;
en fegurri raust var þó frelsara vors skær,
er fólkinu' af skipinu hann kenndi.

En þegar hann var búinn, hann brá upp sinni hönd
og blessaði sitt fólk með líknarhendi;
en fagnaðaróp kvað á fagurgrænni strönd
hjá fólkinu', af skipinu' er hann kenndi.

Og þegar hann var búinn, hann sagði Símon við:
„Ei sitja hjer á grunni skalt þú lengur;
ó, legg út á djúpið, þar fær þú fiskimið,
nú far þú og sjá hvernig gengur.“

„Það stoðar ei hið minnsta,“ við meistarann hann kvað,
„á miði jeg í alla nótt hef setið;
en ekkert hef fiskað, en þó skal reyna það,
að þínu orði vil jeg leggja netið.“

Hann lagði út á djúpið, og lausnarinn var með,
og lagði þar sitt net í drottins nafni;
af fiskimergð þegar hann fylla netið rjeð,
því frelsarinn sjálfur var í stafni.

Ei fullt varð að eins netið, en fullt varð skipið hans,
af fiskimergð þeir jafnvel tvö skip hlóðu,
og glaðir í anda þeir lögðu svo til lands
í leiði og sumarveðri góðu.

En þá í land var komið, þeim öllum ærið brá,
þeir undruðust, hvað vel þeim hafði gengið,
og þegar á svipstund sló ótta yfir þá
af aflanum, sem þeir höfðu fengið.

En Símon kvað, og fjell þar að fótum Jesú þá
mjög felmtraður, en auðmjúkur og glaður:
„Jeg veit þú ert drottinn, ó far mjer, herra, frá,
jeg fallinn og syndugur er maður.“

En Jesús kvað við Símon: „þú óttast eigi skalt,
því eg vil móti slíkum faðminn breiða;
á djúpið, á djúpið þú hugumprúður halt,
því hjeðan í frá þú menn skalt veiða.“

Á land þeir drógu skipin með afla miklum í,
og eptir þar á sjávarbakka skildu;
og Pjetur og Jakob og Jóhannes úr því
æ Jesú sem lærisveinar fylgdu.

---

Hjer flýtur skip á öldum, að fiska gengur tregt,
en fljótum ei á grunnmiðunum lengur;
á djúpið skal halda, þótt virðist voðalegt,
og vitum, hvort þá ei betur gengur.

Ó, leggjum út á djúpið í drottins nafni þá,
og drögum vel og höldum svo að landi,
að lendingu megum í lífsins höfnum ná;—
en leiðið um djúpið er guðs andi.

## *ÍSLENZKT KRISTNIBOÐ*
*meðal heiðingja.*

---

Ýmsir áhugamenn meðal hinnar íslenzku prestastjettar hafa vakið máls á því mjög skorinort og eindregið, að ein af hinum brýnustu skyldum þjóðkirkjunnar íslenzku væri sú, að fara að leggja fram einhvern skerf til styrktar kristniboðinu meðal heiðingja. Einkum eru það sömu þrír prestarnir, er sendu áskorun út um landið um fjársöfnun skólafyrirtæki kirkjufjelagsins til eflingar, sem hafa látið í ljósi, að verklegar framkvæmdir í kristniboðsmálinu lægju þeim að minnsta kosti jafn-mikið á hjarta. Síra Oddur Gíslason hefur þegar byrjað að safna ofurlitlu fje í þessu skyni. Á synodus þeirri, sem haldin var í Reykjavík í sumar, kom mál þetta til umræðu, en eptir því sem sjest af hinum afar-stuttu tíðindum frá þeim fundi, hefur mál þetta fengið afar-daufar viðtökur. Sá maður, sem vjer álitum meðal hinna allra líklegustu til að hjálpa máli þessu áleiðis með vingjarnlegum tillögum sínum og eindregnu fylgi, síra Helgi lektor Hálfdánarson, virðist hafa verið því algjörlega mótfallinn. Eptir því, er sjeð verður, hafa hugir langflestra þeirra, er samankomnir voru á prestastefnu þessari, verið málinu mjög andstæðir. Ástæður þeirra, sem á móti því mæltu, sjerstaklega síra Helga, eru tilgreindar, en ekkert getið um ástæður hinna, sem málinu voru hlynntir og mæltu fyrir því. Það, sem málinu virtist hafa miðað áleiðis fyrir synódus, hefur því að líkindum miðað aptur á bak við þessar umræður.

Og það teljum vjer illa farið. Vjer lítum svo á, að allir hinir upplýstustu kennimenn á fósturjörð vorri ættu að vera því hlynntir, að þjóð vor, eins og allar aðrar kristnar þjóðir í heiminum, sýndi það í verkinu, að henni hefur ekki liðið úr minni boð frelsarans í þessu efni, að hún bæri viðkvæmt hjartalag til þeirra, sem enn ráfa í myrkri heiðninnar og hafa ekki heyrt mannkynsfrelsarann nefndan á nafn. Ástæðurnar, sem fram voru bornar á synodus gegn hluttöku ísl. kirkjunnar í kristniboðinu meðal heiðingja, virðast oss vera af misskilningi sprottnar. Því vjer vitum, að annar eins maður og síra Helgi Hálfdánarson hlýtur svo sem að sjálfsögðu að vera kristniboðinu hlynntur af hjarta, og hið sama má eflaust segja um hina aðra leiðandi menn hinn-

ar íslenzku þjóðkirkju, svo sem ritstj. „Kirkjublaðsins“ til dæmis. Það væri því rangt að skilja tillögur þeirra svo, sem væru þeir mótfallnir kristniboðs-starfsemi í heiminum, sem óneitanlega er eitt af hinum gleðilegustu teiknum tímanna; oss kemur ekki til hugar að gera það, þótt orðin jafnvel bendi til þess.

Sú ástæðan, sem síra Helgi virðist hafa lagt mesta áherzlu á, er þessi: Ástandið víða í hinum kristnu löndum er nú sem stendur svo hræðilegt, að það væri líkast því, sem „ræningjar væru að taka börn sjer til uppeldis,“ þegar slíkir kristnir menn tækju heiðingja inn í sitt trúarfjelag. — Oss finnst álit þetta vera byggt á æði-miklum misskilningi. Ef ummæli þessi væru þýdd á tungur annara kristinna þjóða, mundu þau þykja næsta undarleg, komandi af vörum kirkjulegs leiðtoga í fyrstu röð. Ættu kristnir menn að bíða með að flytja hið blessaða evangelíum um frelsara vorn Jesúm Krist inn í heiðingjalöndin þangað til allt er orðið hreint og fágað heima fyrst? Mundi ekki sú biðin verða æði-löng? Páll postuli er heimsins mikli kristniboði. Þegar hann hóf kristniboð sitt utan Gyðingalands, hafði ekki nema örlítill hluti þjóðarinnar snúizt til trúarinnar á frelsarann. Samt lagði hann af stað í drottins nafni og leiddur af hans anda yfir til Litlu-Asíu og flutti fagnaðarerindið borg úr borg. Setjum, að einhver kristinn maður hefði þá komið til hans og sagt: „Hvað hugsar þú, maður? Sjer þú ekki, hvað skammt kristindómurinn er kominn hjá þinni eigin þjóð? Og samt ferðast þú til framandi landa til að prjedika öðrum þjóðum kristindóminn! Snú þú heim aptur og snú þinni eigin þjóð í heild sinni til trúarinnar á frelsarann. Þá fyrst er tími til kominn að hugsa um kristniboð meðal annara þjóða“. Mundi hinn mikli kristniboði heiðingjanna hafa hlýtt þessu ráði? Nei, skilningur hans á boði frelsarans til lærisveina sinna var allur annar. Hann áleit það skyldu sína að fara land úr landi og borg úr borg og mynda söfnuði hingað og þangað. Hann ætlaðist svo til, að hver þessi söfnuður yrði gróðrastýja eða vermireitur fyrir útbreiðslu kristindómsins hver í sínu mannfjelagi. Honum hefði orðið harðla lítið ágengt, ef hann hefði ætlað að dvelja á hverjum stað þangað til kristindómurinn var búinn algjörlega að fá yfirhönd. Þess vegna fer hann frá Gyðingalandi yfir til Litlu-Asíu, frá Litlu-Asíu yfir til Grikklands, frá Grikk-

landi yfir til Ítalíu. Og svona breiddist kristindómurinn út um heiminn eptir hans dag. Hinar kristnu þjóðir eða rjettara sagt þeir menn meðal hinna kristnu þjóða, sem mest eru starfandi að kristniboði meðal heiðingjanna, fylgja nákvæmlega þessu dæmi postulanna. Þeir sjá að vísu, að það er langt frá því, að kristindómurinn sje orðinn eign allra á fósturjörð þeirra. En þeir hafa ekkert fyrirheit um, að það verði nokkurn tíma. Þeir láta sjer því ekki þá fásinnu til hugar koma að bíða eptir því, heldur leggja þeir út á djúpið, eins og frelsarinn bauð Pjetri. Þeir fara þangað, sem myrkrið er mest í heiminum, og þar kveikja þeir ljós kristindómsins, mynda söfnuði hingað og þangað, og út frá þessum vermireitum smá-breiðist fræ kristindómssns út um löndin, þangað til fylling heiðingjanna er innkomin. Eitt af hinum dýrðlegustu einkennum þessarar aldar er hin stórkostlega kristniboðs-starfsemi, sem aldrei áður hefur náð öðrum eins þroska eða verið rekin með öðrum eins áhuga og fjöri. Ógrynni fjár er varið til þess á hverju ári, og margir hinna gáfuðustu og beztu manna leggja líf sitt í sölurnar fyrir frelsi heiðingjanna.

Og svo hefur kristniboðsmálið enn aðra hlið, sem er mjög svo eptirtektaverð. Vjer álítum hana einmitt aðalatriðið, þar sem verið er að ræða um hluttöku Íslands í kristniboðinu. Það er almennt viðurkennt, að hluttaka einnar þjóðar í kristniboðinu sje kristindómslífinu heima fyrir til hinnar mestu eflingar. Nýtt fjör og líf hefur færzt í kirkjulíf þeirra þjóða, sem nú á þessari öld hafa mestan áhuga sýnt á kristniboðinu. Tökum til dæmis frændur vora Norðmenn. Þeir þakka kristniboðsstarfseminni, sem haldið hefur verið uppi af mikilhæfustu mönnum norsku kirkjunnar nú um langan undanfarinn tíma, mjög mikið af því kirkjulega lífi, sem er í landinu sjálfu. Auðvitað fer engin kristin þjóð að taka þátt í kristniboðinu, nema töluvert andans líf sje vaknað meðal þjóðarinnar. En þegar svo mikill áhugi er vaknaður í einhverju kristnu landi, að hann fæði af sjer verklegar framkvæmdir í kristniboðs áttina, fær hann nýja lypting yfir sig, — nýja skírn af himni. Hinu guðdómlega afli kristindómsins er þannig varið, að ein framkvæmdin fæðir aðrar af sjer; þegar farið er að uppfylla eitthvert boð drottins, sem áður hefur verið vanrækt, vekur það menn til að uppfylla mörg önnur. Nú er svo ástatt í heiminum, að mæla má hita kristindómsins í

lífsæðum þjóðanna með hluttöku þeirra í kristniboðinu. Þar sem öldungis ekkert er látið af mörkum til að styrkja flutning náðarboðskaparins út á meðal heiðingjanna, er kristindómsáhuginn vanalega á mjög lágu stigi. Það mundi því alls ekki auka kristindóms-starfsemina að neinu leyti heima fyrir, þótt kristniboðið væri látið falla niður og deyja út. Þvert á móti mundi það hafa enn meiri andlegan dauða í för með sjer heima í hinum kristnu löndum sjálfum.

Vjer getum því ekki annað en látið það afdráttarlaust í ljósi, að vjer fyllum flokk þeirra, sem láta sjer vera um það hugað, að vor íslenzka þjóð taki einhvern þátt í starfsemi kristinna manna heiðingjunum til frelsis. Fátæktin er mikil, það er satt, — skerfurinn verður þess vegna aldrei nema lítill. En hvað um það, — hann er lagður í þá fjárhirzlu, þar sem ekkjupeningurinn er ekki fyrirlitinn. Það mundi hafa margfalda blessun í för með sjer fyrir kirkjulífið á fósturjörð vorri. Kirkjulífið í landinu mundi ekki verða fátækara fyrir þá aura, sem þannig yrðu goldnir út úr landinu, heldur mundi það auðgast um margar krónur og tugi króna.

Þeir, sem eru málinu hlynntir, hvort sem þeir eru margir eða fáir, ættu að mynda fjelag með sjer nú þegar. Mótspyrnan, sem þeir hafa fengið, ætti að hvetja þá til áframhalds, en ekki draga úr þeim kjarkinn. Sjálfir ættu þessir menn að setja sig í samband við erlend kristniboðsfjelög til að afla sjer upplýsingar um kristniboðs-starfsemina í heiminum. Í ræðum og ritum ættu þeir svo að halda málinu á lopti og útbreiða þekking meðal fólksins um heiðingjalöndin og kristniboðið með fyrirlestrum og ritgjörðum. Vjer erum sannfærðir um, að það mundi bera hinn æskilegasta árangur. En þetta verður að gjörast áður en búast má við, að fólk hinna íslenzku safnaða láti nokkuð almennt fje af mörkum í þessu skyni. Kristniboðið er því alveg ókunnugt, nema af sögum þeirra manna, sem ama hafa á því og vilja því ekki vel, opt vegna þess að þeir vilja helzt, að allur heimurinn væri heiðinn.

Hjer er vissulega mál, sem austur- og vestur-íslenzka kirkjan ætti að geta sameinazt um. Og þegar frumbýlingsár safnaða vorra fara að líða og þeir eru búnir að byggja kirkjur sínar og koma á fót fyrirhugaða skólanum sínum, erum vjer þess full-

vissir, að fáein cent mundu með glöðu geði verða látin renna hjeðan að vestan í hinn íslenzka kristniboðssjóð. En á meðan viljum vjer styrkja málið með tillögum vorum og bænum. það kemur sú tíð, að unnt verður að benda á lúterskan Íslending í hinum fagra kristniboðahóp heimsins.

## *GUÐLAST.*

Í september-nr.i *Sunnanfara* (A og B) standa tvö kvæði eptir þorstein nokkurn Erlingsson í Kaupmannahöfn. Bæði þessi kvæði eru í rauninni ekkert annað en guðlast. Engin göfug hugsun hefur vakað fyrir höfundinum, þegar hann settist niður og fór að ríma, heldur það eitt að hafa eitthvað illt að segja um guð hinna kristnu og kristindóminn. Í fyrra kvæðinu, „Örlög guðanna", er Kristur kallaður „austræna skrímslið", „óvættur", sem lagt hafi „hrammana" yfir löndin. Ef einhver skyldi mæla þessu bót með því, að þessi orðatiltæki í kvæðinu sjeu ekki höfð um Krist sjálfan, heldur „krossinn", þá getur það ekki átt sjer stað. því fyrst og fremst væri það þýðingarlaust bull að kalla krossinn skrímsli og óvætt. Og svo er líka hitt, að krossinn, þegar hann er gjörður að persónu, getur ekkert annað þýtt en Krist sjálfan. það er ekki auðvelt að sjá, hvað ritstjórum „Sunnanfara" hefur getað gengið til að taka slíkt kvæði sem þetta upp í blaðið. þeir eru að færa fram einhverja afsökun fyrir því neðanmáls, sem þó engin afsökun er,—segja að eins, að í kvæðinu komi fram „nokkuru harðari orðatiltæki um sumt, en við sjálfir getum fellt okkur við". Samt hafi þeir „alls ekki vílað fyrir sjer að taka það upp í blaðið sakir annara kosta þess". Oss væri forvitni á að vita, hverjir þeir kostir eru, sem kvæði þetta hefur til að bera. það hefur enga einustu frumlega hugsun inni að halda, heldur æfagamlar, margslitnar guðlastaraþulur. En um guðlast og guðlastara er það að segja, að hvorttveggja er í maklegri fyrirlitning hjá öllum siðuðum mönnum, kristnum og ekki kristnum. Siðaðir menn, sem kastað hafa trú sinni á kristindóminn, hafa þó ætíð svo mikla virðingu fyrir því, sem öðrum mönnum er heilagt, og fyrir því, sem unnið hefur aðra eins sögulega helgi og kristindómurinn, að þeir álíta sig of góða til að fara

með guðlast. Og oss þykir það vissulega mjög mikið miður fara, að ritstjórar „Sunnanf." skyldu láta blað sitt fara að bera þennan ófögnuð út. Haldi blaðið þessu áfram, hljóta góðir menn að fá óbeit á því og neita því um húsrúm.

Hitt kvæðið er kallað „Örbyrgð og auður". Þar er það sagt, að menn—sjálfsagt kristnir menn—kaupi sjer náð guðs með auðlegðinni; þegar einhvern fátækan skorti „bæði náð og brauð", segi guð honum,—líklega í orði sínu, biblíunni,—að hann verði fyrst að fá sjer „auð",—„þá færðu líka náð hjá drottni þínum" Kenning kristindómsins á því að vera sú, að enginn fátækur megi vonast eptir náð drottins, heldur að eins hinir auðugu. Fátæktinni sje hegnt með „víti" hinum megin, en auðlegðinni launað með sælu á himni og jörðu. Þegar jafn-ósannar fregnir eru bornar af einhverju og þetta, eru þær vanalega kallaðar lygafregnir. Auðvitað sakar annað eins og þetta kristindóminn ekki hið allra minnsta, þó tilgangurinn sje nú sá; svo það þarf enginn að taka sjer það nærri þess vegna. En það er ástæða til að taka sjer það nærri mannsins vegna, sem ver þannig hæfileikum sínum, og blaðsins vegna, sem ber slíkt út.—„Sunnanfari" flutti þegar í byrjun snjalla ritgjörð um það, hvernig háskólanámið og veran í Kaupmannahöfn færi með íslenzka námsmenn. Þar var þó ekki minnzt á eitt atriði, sem að voru áliti hefur mestu þýðing. Mjög margir þeirra tapa þar trú sinni hin síðari árin og gjörast talsmenn hinnar römmustu heiðni· Þeir fara til háskólans til að afla sjer menntunar og til að geta orðið föðurlandi sínu gagnlegir menn. En svo lendir það í svalli einu og trúleysi fyrir mörgum, og hinn eini boðskapur, sem þeir hafa að flytja þjóð sinni, er boðskapur guðsneitunarinnar. Það er hörmulegt, að þessu skuli þannig varið með efnilega unga menn, sem trúaðir foreldrar opt sveitast blóðinu til að kosta til náms meðan þeir endast til. Þeir hefðu unnið sjálfum sjer og þjóð sinni miklu meira gagn með því að gjörast smalar eða fiskimenn heima á ættjörð sinni.—Ritstjórar „Sunnanf." hafa ritað gætilega og vel flest það, sem eptir sjálfa þá hefur staðið í blaðinu, en hið sama verður ekki sagt um ritdóma þá, sem þar hafa verið birtir eptir aðra, einkum nú upp á síðkastið. Þeir ættu að vera eins vandir að við aðra og sjálfa sig og ekki lýta blað sitt með aðfengnum óþverra.

---

*SYNODUS*

var haldin í Reykjavík 1. júlí í sumar, á lestrarsal alþingis. Þar voru samankomnir 18 prestar og prófastar auk stiptsyfirvaldanna og kennara prestaskólans, alls 23. Fyrst fóru fram hin vanalegu skipti á styrktarfje til uppgjafapresta og prestaekkna, og þar næst skýrt frá hag prestaekknasjóðsins. Endurskoðun handbókarinnar var þá tekin til umræðu. Síra Helgi ljet í ljósi ósk um, „að fá aptur upp tekið ýmislegt af hinum gömlu helgisiðum, sem skynsemistrú 18. aldarinnar sópaði burtu“. Samþykkt, að kjósa 3 manna nefnd til aðstoðar biskupi við að undirbúa málið undir synodus að sumri. Kosnir voru: sr. Þórhallur, sr. Valdemar Briem og sr. Helgi lektor. Öðru skyldu máli um *fjölgun texta* var vísað til sömu nefndar. Flestir hjeraðsfundir höfðu hneigzt að fullu textafrelsi af prjedikunarstól, að undanteknum hátíðum og bænadögum. Biskup lagði fram skýrslu um messur og altarisgöngur 3 síðastliðin ár. Ágrip af skýrslum þessum eiga að birtast í Kirkjublaðinu. Sr. Þórarinn próf. Böðvarsson hafði samið frumvarp til laga um hið innra skipulag hinnar íslenzku þjóðkirkju. Nefnd kosin til að íhuga þetta mál ásamt stiptsyfirvöldunum. Sr. Helgi lektor Hálfdánarson „flutti erindi“ um trúarvörn. Síðar á þetta *erindi* að birtast í Kbl. — Biskup talaði um hreinleik kenningarinnar, einkum í sambandi við framkomu síra Matthíasar. Urðu um það nokkrar umræður og skýrði biskup frá afskiptum sínum í þessu máli. Síra Helgi flutti fyrirlestur um helgisiði. Annan fyrirlestur hafði síra Ólafur í Guttormshaga ætlað að flytja, en gat ekki sótt fundinn. —Þá var kristniboðsmálinu hreift af síra Jens Pálssyni. Um tvennt væri að ræða, kristniboð meðal heiðingja og samskot til hins væntanlega lút. skóla ísl. kirkjufjelagsins í Vesturheimi. Síra Helgi talaði skorinort á móti kristniboði meðal heiðingja, en var samskotunum til skóla kirkjufjelagsins hlynntur. Sömuleiðis biskup. Síra Þorkell mælti kristniboðsmálinu bót. Engin ályktun tekin því viðvíkjandi.—Biskup skoraði á viðstadda presta að leita samskota hjá söfnuðum sínum til að styðja trúarboðsstarfsemi Runólfs Runólfssonar í Utah. Síra Jóhann Þorkelsson talaði um bindindismálið. Biskup las upp ávarp til andlegrar stjettar manna. Ýmsir töluðu með og móti bindindisstarfseminni. Engin ályktun gjörð.

Af „þjóðólfi“ sjáum vjer, að biskup hefur í sambandi við ummæli sín um hreinleik kenningarinnar talað um framkomu presta þeirra, er rita nafnlausar blaðagreinar óvinveittar kirkjunni og ósamboðnar stöðu þeirra, og lýst yfir því, að slík aðferð mundi eptirleiðis ekki verða látin óátalin. Sú áminning var í sannleika hin tímabærasta. Um næstu undanfarin ár hafa býsna margar slíkar greinar birzt í „Fjallkonunni“. Og einmitt á þessu ári hefur nafnkenndur prestur í þjóðkirkjunni orðið opinberlega að gangast við því, að hann sje höfundur að einni slíkri grein, sem telja má með hinum lökustu í þessari röð. það er vonandi, að þessi ummæli biskupsins verði fyllilega tekin til greina og breytt eptir áminningunni, sem í alla staði var nauðsynleg og sjálfsögð.—Yfir höfuð hefur þessi síðasta synodus verið hin lang-myndarlegasta, sem haldin hefur verið í voru minni. Byrjað var kl. 10 f. h. og ekki hætt fyr en hálfri stundu eptir miðnætti. Næsta ár vonum vjer að setið verði tvo daga heila, og mundi þá mega margt gagnlegt orð og uppbyggilegt tala, Vjer vonum þá líka, að gefin verði út miklu nákvæmari synodustíðindi en það ágrip, er í þetta sinn var birt í „Kirkjubl.“; það tók að eins yfir 3 bls. og er því mjög svo ónákvæmt. það hefur mjög mikla þýðingu, að öll framlögð skjöl og allar ályktanir sjeu að minnsta kosti prentaðar orðrjettar. þar sem menn standa eins vel að vígi og í höfuðstað landsins með að koma öllu slíku á prent mjög kostnaðarlítið, ætti það ekki að vera látið ógjört Einungis á þann hátt fá líka prestastefnur þessar þá þýðing fyrir ísl. kirkjuna í heild sinni, sem þær eiga að hafa og geta haft.— það er von vor, að „Sam.“ verði ekki vítt fyrir *hlutsemi*, þótt hún við og við segi álit sitt um eitthvað af málum þeim, sem bræður vorir heima ræddu á þessari síðustu synodus.

---

## „*ÍSLENZKI GOOD TEMPLAR*“

heitir blað Good Templara-reglunnar á Íslandi. Oss er sent það að heiman með hverjum pósti, og er það oss ánægja að leiða athygli lesenda vorra að því. Ritstjórinn er Björn Jónsson, ritstjóri Ísafoldar. það er minnst af öllum íslenzkum blöðum, og eru þau þó ekki svo risavaxin. En ef þau skildu ætlunarverk

sitt eins vel öll og leystu það jafn-drengilega af hendi, væri vel yfir að láta. Good Templarinn gjörir sjer ekki tæpitungu, þegar hann er að tala um drykkjuskapinn. Hann er ekki einlægt að hugsa um það, að koma orðum sínum svo haglega fyrir, að engum geti fundizt sneitt vera að honum, heldur segir hann meiningu sína um drykkjuskapar-ósómann og allan þann vesaldóm, er hann leiðir menn út í, svo einarðlega og skorinort sem mest má verða. Sumar smágreinarnar, sem blaðið hefur haft að færa, hafa verið svo vel samdar, að hin íslenzku blöðin hefðu átt að taka þær upp og gefa þeim sem mesta útbreiðslu. Svo framarlega sem öll velferðarmál lands vors væru rædd með jafn-miklum áhuga og sannfæringu og bindindismálið er rætt í þessu litla blaði, mundi árangurinn einhversstaðar sjást. Enda eru þær framfarirnar ekki minnst verðar á fósturjörð vorri, sem fólgnar eru í framgangi bindindisins á síðastliðnum áratug. Vjer óskum Good Templaranum alls hins bezta og ráðum sem flestum til að lesa hann.



## „*JEG ER ENN ÞÁ KRISTINN!*“

Fyrir meir en 50 árum voru nokkrir menn að heimboði hjá vini sínum einum í dálitlum bæ á Englandi. Eptir miðdegisverðinn drógu frúrnar, sem að heimboðinu sátu með mönnum sínum, sig í hlje og ljetu þá eina eptir. Fóru þá samræður þeirra, herranna, að verða kryddaðar guðlasti og öðrum ljótum munnsöfnuði. Einn af gestunum mælti ekki orð af munni, en þegar þetta tal hafði gengið um stund, mæltist hann allt í einu til þess við húsráðanda, að mega kalla á þjóninn. Það var óðar leyft. En er þjónninn kom, bað gesturinn hann að sækja hest sinn og vagn að vörmu spori. Kurteislega og með hinni mestu stilling bað hann þá, sem þarna voru viðstaddir, að fyrirgefa sjer, hann sæi sig neyddan til að kveðja þá fyr en hann hefði ætlað, „*því*“, segir hann, „*jeg er ennþá kristinn!*“ Menn gæti að orðunum: jeg er enn þá kristinn! því þau fóru ekki fram hjá þessum mönnum. Menn ímynda sjer líklega, að maður með svona mikla trúardjörfung hafi hlotið að vera prestur eða biskup. Hann var það ekki. Þetta voru allt leikmenn. En gesturinn, sem hjer er

um að ræða, varð seinna nafnfrægur stjórnarforseti snemma á ríkisárum Victoríu drottningar. Það var enginn annar en *Sir Robert Peel.*—*Canon Liddon.*

## *Dr. WILLIAM JULIUS MANN.*

Lúterska kirkjan hjer í landinu missti í sumar einn sinn ágætasta guðfræðing og kennara. Dr. *William Julius Mann* var kennari í 27 ár við guðfræðisskóla *General Council's* í Philadelphia. Hann var fæddur 20. júní 1819 í Stuttgart á Þýzkalandi, en tók próf í guðfræði við háskólann i *Tybingen* 1841, gjörðist prestur hins elzta og stærsta safnaðar í Philadelphia 1850 og hjelt því embætti þangað til 1884. Hann var skólabróðir Dr. *Philip Schaff's,* þess manns, sem frægastur guðfræðingur er talinn hjer í þessu landi, og voru þeir síðan aldavinir og störfuðu opt saman að útgáfu vísindalegra guðfræðisrita. Dr. Mann kenndi hebresku, siðafræði og trúarbragðafræði og átti hinum mestu ástsældum að fagna hjá lærisveinum sínum. Hann ritaði ensku og þýzku jöfnum höndum og eru all-margar og merkilegar bækur til eptir hann á báðum þessum tungumálum. Hann var allra manna fróðastur um sögu lút. kirkjunnar í landi þessu, og eru bækur hans um það efni enn svo að segja hin einustu heimildarrit. Gáfur hans voru víðtækar og fjölhæfar, en svo djúpar um leið, að hann var aldrei ánægður fyr en hann hafði gjört sjer heimspekilega grein fyrir öllu og fengið lærisveina sína til að gjöra það líka. Sá, sem þetta ritar, hafði þá ánægju að sitja við fætur hans eitt ár í Philadelphia og hafa sterkari hugsanir nje beittari orð aldrei komið til hans frá nokkrum manni, og hið sama segja hinir mörgu, sem átt hafa hann fyrir læriföður.

*Nýtt lút. kirkjufjelag* myndaðist fyrir rúmu ári síðan hjer í þessu norð-vestur landi og hjelt nú í sumar annað ársþing sitt. Það nefnist *The Evangelical Lutheran Synod of the Northwest.* Synódu þessari tilheyra að eins þeir prestar og söfnuðir, er láta guðsþjónustur sínar fara fram á enska tungu. Prestarnir eru 7. Forsetinn er Rev. G. H. Gerberding í Fargo, sem kunnur er

nú orðinn meðal vors íslenzka kirkjufólks hjer, þar sem hann hefur nú þrisvar sinnum komið hingað norður og prjedikað í kirkjum vorum, tvisvar í Winnipeg og eitt sinn á Gardar. Fyrir utan hið ísl.kirkjufjelag vort er þetta lang-minnsta lút.sýnódan hjer í nágrenninu En hún hefur ákaflega mikil og heillarík áhrif út frá sjer, mest fyrir dugnað og ötula framgöngu forsetans. Hann er að leitast við að koma Norðmönnum í Norður- og Suður-Dakota, Minnesota og Wisconsin í skilning um, að þeir verði að stofna sunnudagsskóla í söfnuðum sínum, þar sem kennt sje á ensku, svo börnin, sem naumast eru farin að skilja sitt móðurmál, tapist ekki úr lút. kirkjunni og inn í ameríkönsku kirkjurnar, sem auðvitað láta sjer mjög annt um að ná í þau. Hann hefur þegar miklu til leiðar komið í þessa átt og hefur þó enn ekki dvalið lengi hjer vestur frá. Þetta starf hans hefur, eins og öllum er skiljanlegt, hina stórkostlegustu þýðing fyrir framtíð kirkju vorrar hjer.

---

## *FERÐ SÍRA HAFSTEINS TIL NÝJA ÍSLANDS.*

Á hina síðasta kirkjuþingi voru bar erindsreki Bræðrasafnaðar við Íslendingafljót þau tilmæli fram frá söfnuðinum, að einhver af prestum kirkjufjelagsins kæmi norður þangað, ef unnt væri, til að prjedika guðsorð, ferma ungmenni nokkur, gefa fólkinu kost á að ganga til drottins borðs og vinna önnur prestsverk. Þessa ferð tókst síra Hafsteinn Pjetursson góðfúslega á hendur skömmu eptir að hafa farið ferð þá til Þingvallanýlendunnar, er hann skýrði frá í júlí og ágúst-nr. „Sam.“ Hann hefur sannarlega ekki haldið kyrru fyrir í sumar. Með ferðalagi þessu hefur hann auðvitað orðið afarmikið á sig að leggja. En því meira sem hann hefur lagt á sig, því innilegra ætti þakklæti kirkjufjelagsins og safnaðanna, sem hann hefur svo ötullega starfað fyrir, að vera.

Sunnud. 11. sept. messaði hann í skólahúsinu við fljótið. Má nærri geta, hvílík hátíðarstund það hefur verið fyrir söfnuðinn, sem ekki hefur átt kost á að heyra guðsorð talað af neinum lúterskum presti síðan í fyrra, að síra Jón Bjarnason ferðaðist til Nýja Íslands. Hann fjekk þegar áskorun frá tveimur söfn-

uðum, öðrum í Mikley og hinum í Árnesbyggð, að koma og prjedika. 15. sept. fór hann upp með fljótinu og heimsótti Fljótshlíðarsöfnuð í svonefndri Efribyggð og prjedikaði þar. — Sunnudaginn 18. sept. flutti hann aptur guðsþjónustu í Bræðrasöfnuði. Hann fermdi þá 8 ungmenni og tók margt fólk til altaris. Daginn eptir sigldi hann til Mikleyjar með 4 mönnum, er sendir höfðu verið til að sækja hann. Næsta dag messaði hann þar og tók margt fólk til altaris. Kirkju Mikleyinga segir hann hjer um bil fullgjörða, vandað hús að öllum frágangi. Er það til mikils hróss fyrir jafnfáa og fátæka menn og eyjarbúar eru, að hafa komið upp sómasamlegu guðshúsi á skömmum tíma, og er auðvitað, að þeir hafa ekki getað gjört það nema með því að taka nærri sjer. En svo ættu þeir að hafa hugfast um leið, að kirkjan sje notuð til að staðfesta þá í trúnni, en ekki til þess að uppræta trúna úr hjörtunum. — Að afloknu erindi sínu í Mikley fór síra H. P. aptur upp að Íslendingafljóti. Bræðrasöfnuður hjelt honum skilnaðarsamkomu, til að votta honum verðugt þakklæti fyrir starf hans. Þaðan hjelt hann svo tafarlaust til Árnesbyggðar og flutti þar guðsþjónustu. Sd. 25. sept. messaði hann í skólahúsinu Kjarna í Víðinesbyggð. Þar eru tveir söfnuðir og tilheyrir annar þeirra síra Magnúsi en hinn kirkjufjelaginu. Í allri ferðinni flutti hann 6 guðsþjónustur, fermdi 8 unglinga, skírði 17 börn og staðfesti skírn á 6. Hann flutti guðsþjónustur í fimm söfnuðum. 3 þeirra tilheyra kirkjufjelaginu, en tveir þeirra halda fast við hina lútersku trúarjátning sína og ætla sjer eflaust að ganga inn í kirkjufjelagið. Það er næsta eptirtektavert, að í fyrstu, er síra Magnús fjell opinberlega frá trú sinni, virtist allt Nýja Íslandi vera honum fylgjandi, nema Bræðrasöfnuður. Nú eru söfnuðir þeir, sem standa þar á sama trúargrundvelli og kirkjufjelagið, orðnir 5. Það er smámsaman að verða fólkinu þar skiljanlegt, að fráfall síra M. frá kirkjufjelaginu þýddi um leið fráfall frá kristindóminum og inngöngu í fjelag, sem neitar og berst á móti aðalatriði kristindómsins, guðdómi frelsarans. Hann gjörir einlægt betur og betur grein fyrir því, að hann er kominn langt út af grundvelli kirkjunnar. Og svo snúa þeir menn eðlilega smám saman við honum bakinu, sem ekki fylgja honum á þeirri leið. Það er bæn vor til drottins, að augu sem flestra ljúkist upp, svo þeir hverfi

aptur til barnatrúar sinnar. —Síra Hafsteini var mjög vel tekið alls staðar þar sem hann kom og hann segist ekki hafa orðið var við annað en hlýlegan bróðurhug til kirkjufjelagsins. Drottinn blessi það sannleikans fræ, sem síra H. hefur skilið eptir í hjörtunum.

---

Kaupendur „Sam." eru bróðurlega beðnir að fyrirgefa þann drátt, sem orðið hefur á útkomu blaðsins. Það hefur staðið svo á þeim drætti, að sá, sem haft hefur ritstjórn blaðsins á hendi síðan síra Jón Bjarnason varð veikur, hefur sjerstakra kringumstæðna vegna ómögulega getað gegnt þeim starfa frá því í júlí og þangað til í september. Nú verður hvert nr. látið koma út á eptir öðru eins fljótt og unnt verður, þangað til búið er að vinna upp það, sem blaðið er orðið á eptir tímanum. Og aukanr. verður látið koma einhvern tíma fyrir lok árgangsins til að bæta upp það nr., sem kirkjuþingsfrjettirnar urðu að standa í. Um leið skal þess getið, að þeir, sem ekki fá blaðið með skilum eða breyta um bústaði, skulu hjer eptir snúa sjer til herra Jóns Blöndals, ljósmyndara, 207, 6th Ave N., Winnipeg. Hann hefur útsending blaðsins á hendi og allt það, er að henni lýtur, en herra Magnús Paulson, ráðsmaður Lögbergs, hefur reikningshald blaðsins á hendi og veitir innborgunum viðtöku. Nákvæmlegar skal þetta verða auglýst í næsta nr.

---

Til skólans.

Jón Skanderbeg, Akra, $5.00.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; fjórði ársfjórðungur 1892.

10. lexía, sd. 4. Des.: Vinna á meðal heiðingja (Pg. 14, 8-22.)
11. lexía, sd. 11. Des.: Postula-ráðsamkoman (Pg. 15, 12-29.)
12. lexía, sd. 18. Des.: Yfirlit.
13. lexía, sd. 25. Des.: Fæðing frelsarans (Lúk. 2, 8-20.)

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, M. Paulson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.